Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Ert þú áskrifandi að viku-blaði verkafólks?

Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

1. og 2. tölublað Þriðjudaginn 10. janúar 1979 8. árgangur verð kr. 100.-

## Starfsstúlkur boða verkfall 15 jan

Starfsfólk sjúkrahússins á Akranesi, sem vinnur svonefnd "sóknarstörf", hefur boðað verkfall frá 15. janúar.

Síðan í kjarasamningunum 1977 hefur þetta fólk reynt að fá sömu kjör og aðrir bæjarstarfsmenn á Akranesi. Hefur bæði verið um það rætt að ófaglærðar konur sem vinna á sjúkrahúsinu fái inngöngu í STAK (Starfsmannafélag Akranesbæjar) og að þær verði áfram í Verkalýðsfélaginu en fái sömu kjör og aðrir bæjarstarfsmenn.

Starfsstúlkur á dagheimilinu og nýja elliheimilinu, Höfða, hafa fengið inngöngu í STAK. Eftir er þó að semja um lífeyrissjóðsréttindi þeirra. Bæjarfélagið hefur hins vegar alfarið neitað starfsstúlkum sjúkrahússins um sömu kjör og ber því við að slíkt muni kosta um 35-40 millj. á ári.

### Stórfellt misrétti

Munurinn á launum félaga Verkalýðsfélagsins annars vegar og bæjarstarfsmannafélagsins hins vegar er gífurlegur, eins og raunar munurinn á launum félaga verkalýðshreyfingarinnar almennt annars vegar og opinberra starfsmanna hins vegar. Þessi mismunur kemur fram í launum, vaktaálagi og hvers kyns réttindum, svo sem starfsaldurshækkunum, veikindafríum, orlofi og lífeyrissjóði.

Stéttabaráttan hefur nýlega greint frá launamisrétti milli Sóknarkvenna og þeirra félaga BSRB sem vinna sambærileg störf. Jafnframt má nefna atriði eins og að starfsaldurshækkanir opinberra starfsmanna eru mun meiri en þeirra sem eru í verkalýðsfélögunum og kemur fram í meiri kauphækkunum, lengri veikindafríum og lengra orlofi Veikindafrí eru aldrei meira en 10 vikur hjá þeim síðarnefndu hversu lengi sem þeir hafa unnið, en er frá 3 mán upp í 12 mán á fullum launum hjá þeim sem unnið hafa yfir 20 ár í síðarnefnda hópnum. Laugardagar teljast með virkum dögum í orlofi verkafólks en ekki hjá opinberum starfsmönnum og getur orlof þeirra orðið 10 dögum lengra. Fæðingarorlof verkakvenna er 3-4 vikur en opinberra starfsmanna 3 mánuðir. Lífeyrissjóður verkafólks er óverðtryggður en bæjarstarfsmenn

framhald á síðu 7




VIETNAMAR INN Í KAMPUCHEA•

Mynd Klassekampen.

## Ófullnægjandi fiskverð

Loksins liggur fyrir ákvörðun um nýtt fiskverð. Það er aðeins 11% hækkun frá fyrra verði.

Krafa sjómanna var hins vegar 14% hækkun hið minnsta.

Verð þetta gildir til 1. maí en er uppsegjanlegt 1. mars ef almennar kauphækkanir fara fram úr 5%.

Það var skammt að bíða þess að útgerðarmenn og frystihúsaeigendur hæfu aftur upp raust sína og nefðu í hótunum um lokun. Talsmenn beggja

framhald á síðu 7

# Innrás Víetnama í Kambodíu

Enn hafa víetnamar aukið árásir sínar á Kampuchea. Nú dylst fáum að markmið þeirra er að leggja undir sig landið. Þetta er liður í útþenslustefnu víetnama sem miðar að því að gera víetnamskt stórveldi í Suð-austur-Asíu.

Þessi áform víetnama fá dyggan stuðning frá skoðanabræðrum þeirra í Kreml.

Ríkisstjórn Kampuchea hefur sent frá sér áskorun til Sameinuðu þjóðanna um að skerast í leikinn og um þessar mundir er Sijanúk fyrrverandi þjóðhöfðingi á leið til aðalstöðva SÞ til að tala máli þjóðar sinnar.

Á sama hátt og öflugt almenningsálit í heiminum flýtti fyrir ósigri bandarísku heimsvaldasinnanna í Víetnam getur almenningsálit gegn innrás víetnama flýtt fyrir ósigri þeirra og sovésku heimsvaldasinnanna.

Framkvæmdanefnd miðstjórnar Kommúnistaflokks Íslands hefur af þessu tilefni sent Benedikt Gröndal utanríkisráðherra eftirfarandi bréf með áskorun um að hann fordæmdi innrás víetnamhers í Kampuchea.

## Tilkynning frá ritnefnd

Að venju sendi sendiherra Víetnams, sem hefur aðsetur í Stokkhólmi, Stéttabaráttunni kort með nýárskveðjum. Að þessu sinni sá ritnefnd ekki ástæðu til að taka við þessari kveðju vegna innrásar víetnama í Kampuchea.

Ritnefnd endursendi þess vegna kortið með eftirfarandi bréfi:

Ritstjórn Stéttabaráttunnar, málgagns Kommúnistaflokks Íslands, fékk sent nýárskort sem hér með endursendist. Ritnefnd Stéttabaráttunnar hefur ekki áhuga á sambandi við víetnömsk yfirvöld né að taka við kveðjum frá þeim.

Stéttabaráttan og Kommúnistaflokkur Íslands studdu heilshugar hetjulega baráttu víetnama gegn bandarísku heimsvaldastefnunni en geta hvorki né vilja styðja sams konar árásarstefnu víetnama gegn Kampuchea.

Afskipti af innanríkismálum annars ríkis teljum við meðal verka sem kommúnistar framkvæma ekki og geta ekki stutt. Innrás víetnamhers í Kampuchea er óverjandi útþenslustefna, það er víetnömsk heimsvaldastefna.

Niður með alla heimsvaldastefnu.

Ritnefnd Stéttabaráttunnar.

## Frá F.N. KFÍ M/L

Framkvæmdanefnd miðstjórnar Kommúnistaflokks Íslands vill hvetja utanríkisráðherra til að fordæma innrás víetnamhers inn í Kampuchea.

Innrás þessi hlýtur að vekja viðbjóð allra friðelskandi manna þar sem eru á grófan hátt þverbrotnar allar reglur um virðingu fyrir sjálfstæði annarrar þjóðar.

Að baki víetnamhers grillir í grímulausa heimsvaldastefnu Sovétríkjanna sem gerir málið alvarlegt hvað varðar frið í heiminum þar sem þetta lítur út sem stríðsundirbúningur Sovétríkjanna.

Ríkisstjórn Pol Pot hefur beint þeim tilmælum til Sameinuðu þjóðanna að skakka leikinn. Við lítum einnig á það sem beiðni til allra friðelskandi manna um að fordæma útþenslustefnu víetnama gagnvart Kampuchea.

Við tökum undir þessa beiðni kampucheamanna og beinum þeirri áskorun til utanríkisráðherra að hann fordæmi í nafni ríkisstjórnarinnar þessa innrás.

Fyrir hönd framkvæmdanefndar miðstjórnar KFÍ
Gunnar Andrésson.

LEIÐARI

# Ríkisstjórn kaupránsflokka

Fyrrverandi ríkisstjórn var réttnefnd ríkisstjórn kaupránsflokka. Undir því slagorði meðal annars unnu Alþýðubandalag og Alþýðuflokkur kosningasigur sinn. Þeir flokkar mynduðu síðar stjórn með "fyrrverandi kaupránsflokki". Margir bjuggust við að sú ríkisstjórn sýndi hvernig ríkisstjórn starfaði sem ekki væri kaupránsstjórn.

Raunin hefur hins vegar orðið allt önnur. Kaupránið er hið sama en aðferðirnar eru aðrar. Afleiðingarnar fyrir launafólk eru nákvæmlega hinar sömu.

Aðgerðir ríkisstjórnarinnar tala sínu máli.

Hún setti aldrei samningana í gildi að fullu eins og kosningaloforð hljóðaði upp á.

Hún rauf gerða samninga 1. desember sl.

Hún ræðst á kjör sjómanna með fiskverðsákvörðuninni nú í janúarbyrjun.

Hún hefur bollalagt að skera á kauphækkanir á þessu ári.

Hún hefur gert áætlanir um stórfellda hækkun skatta á einstaklingum á þessu ári. Þetta eru skattar sem nær eingöngu koma á launafólk því þeir sem hafa hæstar tekjur, atvinnurekendur, hafa líka alla möguleika á skattsvikum.

Hún ætlar að búa til "nýja" vísitölu sem á að koma í veg fyrir kauphækkanir.

Þetta er sú hlið ríkisstjórnarinnar sem snýr að launafólki. Það er kjaraskerðing og kauprán.

Á hinn bóginn sýnir ríkisstjórnin atvinnurekendum "góðu hliðina" á sér. Kröfur atvinnurekenda eru allar sjálfkrafa gerðar að stefnu ríkisstjórnarinnar.

Frystihúsaeigendur lokuðu og ráku starfsfólk. Þeir fengu gengislækkun eins og þeir báðu um.

Kók- smjörlíksframleiðendur lokuðu og fengu umbeðna hækkun.

Dagblöðin mótmæltu og í staðinn fengu þau að hækka verðið meira en ríkisstjórnin hafði ógilt.

Iðnaðurinn heimtar tolla og innflutningsgjöld auk beinna styrkja. Ríkisstjórnin er að ganga frá þeim málum.

Það er sama hvar borið er niður. Þessi ríkisstjórn hefur hagsmuni atvinnurekenda að leiðarljósi eins og fyrrverandi ríkisstjórn.

Á stefnuskrá sumra ríkisstjórnarflokkanna eru ákvæði um þjóðnýtingu fyrirtækja. Af hverju er þá ekki látið reyna á það þegar atvinnurekendur kasta verkafólki á klaka atvinnuleysis og loka fyrirtækjum? Svarið er einfaldlega það að þessir flokkar hafa ekki hugsað sér að hrófla við hagsmunum auðherra og atvinnurekenda í einu eða neinu.

Þvert á móti. Þessir flokkar ætla að þjóna þessum öflum með því að lækka kaup launþega. Til þess nota þeir flokksbræður sína í forystu stéttarfélaganna. Þeirra hlutverk er að svæfa baráttuhug verkafólks og knýja í gegn, með öllum tiltækum ráðum, áform ríkisstjórnarinnar. Kauprán þessarar ríkisstjórnar er að því leyti frábrugðið að forystumenn stéttarfélaganna samþykkja það. Sumir þeirra taka meira að segja þátt í því að taka þessar ákvarðanir þar sem þeir sitja í miðstjórnum ríkisstjórnarflokkanna.

Það er verkefni launþega að losna við þessi öfl úr stjórnum stéttarfélaganna og velja í þeirra stað menn sem rugla ekki saman hagsmunum launþega og atvinnurekenda.

Forystumenn stéttarfélaga úr röðum sjálfstæðismanna leika nákvæmlega sama leikinn. Þeir samþykktu kaupránið í febrúar sl. en setja nú upp vandlætingarsvip og fordæma Guðmund J. Guðmundsson og co. Bak við vandlætingarsvipinn leynist þó viljinn til að gera nákvæmlega það sama bara ef "réttir" flokkar komast í ríkisstjórn.

Mikilvægi stéttarfélaganna verður seint ofmetið. Þau eru meginvettvangur fyrir baráttu launþega gegn kjaraskerðingu og kaupráni. En til þess að svo megi verða er nauðsynlegt að félögin séu virk og óháð stjórnmálaflokkum. Forystumenn sem samþykkja kjaraskerðingu gegn óljósum loforðum um "félagslegar umbætur" eru ekki að berjast fyrir hagsmunum verkafólks. Slíkum mönnum verður að víkja burt svo unnt sé að gera verkalýðsfélögin að baráttutækjum fyrir betri kjörum og betra þjóðfélagi.

# Opið bréf frá KFÍ/ML til EIK(m-l)

## 6. Hluti.

Hér birtist 6. og síðasti hluti svars KFÍ/ML við bréfi EIK(m-l) þar sem gagnrýnd er afstaða okkar til sameiningargrundvelli þeirra.

9. Alræði alþýðunnar í alþýðulýðveldum er vissulega til. Lýðræðislegt alræði alþýðunnar (Maó Tsetung) er millistig milli gamla þjóðfélagsins og alræðis öreiganna í löndum þar sem nýlýðræðisbylting er afstaðin. Að kenna þetta við endurskoðunarstefnu Krúsjeffs og co. er árás á marx-lenínismann/kenningar Maó Tsetungs og sýnir ruglanda og endurskoðunartilburði ykkar betur en margt annað.

## Svar

Um 9. lið í bréfi ykkar er lítið annað að segja en það sem fram kemur í svari KFÍ m-l við sameiningargrundvelli EIKm-l.:"c) Síðast í ályktuninni í e-lið segir:"Hvetja verður íslenska alþýðu til að styðja sósíalísku ríkin og stéttarveldi verkalýðsins gegn árásum stéttaróvinarins og fals-sósíalistanna. Einnig verður að styðja alræði alþýðunnar í alþýðulýðveldum og þjóðfrelsisbaráttu í þriðja heiminum í verki meðal annars með fjárframlögum og upplýsingarmiðlun. (Undirstrikun okkar).

Það sem við undirstrikum teljum við vera alrangt fram sett. Í fyrsta lagi tala m-listar aldrei um alræði alþýðunnar, slíkt tal er ættað frá Krúsjeff og er endurskoðunarstefna. Hins vegar teljum við að það sem þarna er verið að reyna að segja sé, að það verði einnig að styðja nýfrjálsu ríkin. Það er jú búið að tala um stuðning við alþýðulýðveldin .,e.a.s. "sósíalísku ríkin og stéttarveldi verkalýðsins" eins og komist er að orði." (Stéttabaráttan 37.tbl. ´78).

Því er þó hægt að bæta við að Maó talar hvergi um "alþýðulýðveldin" sem hið sósíalíska ríkisvald.

Aftur á móti tala hann um "stofnun ríkis sem verður lýðræðislegt alræði alþýðunnar undir forustu verkalýðsstéttarinnar og styðst við bandalag verkamanna og bænda." (Um lýðræðislegt alræði alþýðunnar, Maó). (undirstrikun okkar).

Þetta er því auðvitað ekkert annað en útþynning sem EIK m-l kallar marx-lenínska skilgreiningu.

# Starfsstúlkur

framhald af síðu 7

líkara en forysta sumra verkalýðsfélaga vilji ekki að kjör láglaunafólks batni því þá hefði hún ekkert láglaunafólk til að lýsa umhyggju sinni fyrir. Eða hvenær hefur t.d. Sókn farið í hart til þess að bæta kjör félaga sinna?



### Prófmál.

Hvort sem starfsstúlkur sjúkrahússins á Akranesi fá inngöngu í STAK eða aðeins sömu laun og réttindi og aðrir bæjarstarfsmenn, þá verður það mikið fordæmi fyrir það starfsfólk annara ríkisstofnana sem ekki nýtur réttinda opinberra starfsmanna. Búast má því við að í kjölfar baráttu kvennanna á Akranesi fylgi sams konar kröfur á öðrum sjúkrahúsum.

Það er einmitt þetta sem heldur aftur af bæjarstjórninni á Akranesi. Fjöldi annara bæjarfélaga og ríkisvaldið líka standa að baki bæjarstjórninni að láta ekki undan kröfum starfsstúlknanna. Á sérhverju sjúkrahúsi er mjög stór hópur ófaglærðs og réttindalítils láglaunafólks sem stofnanirnar komast ekki af án. Því mun bæjarstjórnin á Akranesi verða beitt þungum þrýstingi að gefa hvergi eftir.

En hvað með starfsstúlkurnar, njóta þær stuðnings?

Kvennadeild Verkalýðsfélags Akraness hefur tekið upp þeirra málstað. Ekkert hefur hins vegar heyrst ennþá frá Sókn í Reykjavík eða öðrum aðildarfélögum ASÍ.

Líklegt má telja að konurnar beri sigur úr bítum ef þær standa harðar á kröfum sínum. Sjúkrahúsið getur ekki starfað lengi án vinnu þeirra. Samt sem áður er þeim nauðsynlegt að fá víðtækan stuðning utan að. Slíkt eflir samstöðu þeirra og hvetur þær til að standa fast á kröfum sínum. Það eflir líka stéttarvitund þeirra sem styðja þær og gerir fleiri virka í sameiginlegri baráttu starfsstúlkna á sjúkrahúsum. Mikilvægur þáttur sérhverrar baráttu er sá stuðningur sem hún fær. Ef stuðninginn skortir getur samstaðan brotnað.

Barátta starfsstúlknanna á Akranesi mun einnig sýna fram á hvernig verkalýðshreyfingin bregst við raunverulegri baráttu láglaunfólks.

Stéttabaráttan hvetur verkalýðsfélög og allt verkafólk til að styðja kröfur starfsstúlkna sjúkrahússins á Akranesi. Sérstaklega er mikilvægt að starfsfólk annara sjúkrahúsa taki kröfur þeirra upp.


## HAFIÐ SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS M-L

Miðstjórn og ritstjórn Stéttabaráttunnar: sími 27810 og pósthólf 1357 121 R. einnig í Rauðu Stjörnunni bókabúð, Lindargötu 15, opið mánud. - föstud. kl. 16:00 - 18:30.

AKUREYRI
Jón Atli Játvarðsson
Skarðshlíð 30.

HAFNARFJÖRÐUR
Fjóla Rögnvaldsdóttir
Reykjavíkurvegi 24.

KEFLAVÍK
Einar Jónsson
Sólvallagötu 40c.

HELLISSANDUR
Sigfús Almarsson
Hellisbraut 10.

HORNAFJÖRÐUR
Margrét Einarsdóttir
Silfurbraut 2

SVÍÞJÓÐ
Kristján L. Guðlaugsson
Kämnärsvägen 11 N:220
222 46 LUND

# Hvert er hlutverk Samtaka herstöðvaandstæðinga

Hvert er hlutverk Samtaka herstöðvaandstæðinga.

Barátta Samtaka Herstöðva-andstæðinga hefur alla tíð gengið upp og niður, en sem betur fer hefur hún líka þokast fram á við. Annað væri reyndar óhugsandi. Hvað er það sem alla tíð hefur staðið baráttu okkar fyrir þrifum? Eitt af því mikilvægasta er afstaða misvitra pólitískra manna sem á alþingi sitja. Öllum er í fersku minni kosningarloforð Alþýðubandalagsins fyrir kosningar um að eitt höfuðmálið yrði herinn brott og Ísland úr NATO. En hver varð rauninn. Öllum loforðunum var kastað fyrir róða til þess að verða þeirrar náðar aðnjótandi að verma rassana í ráðherrastólunum. Hinir fjöldamörgu sem kusu Alþbl. vegna fyrri afstöðu voru sviknir og hafa reyndar alla tíð verið sviknir því alþýðubandalagið verður aldrei þess umkomið að gera neitt raunhæft í málunum.



Eina aflið sem getur eitthvað gert í þessum málum er alþýðan, fólkið sjálft sem verður að berjast þrotlausri baráttu til að þessi "draumur" verði að veruleika. Til þess eru samtök Herstöðvaandstæðinga

Hvernig hefur starfið verið undanfarið? Það hefur verið æði lítið og máttlaust, máttlaust meðal annars vegna þess að inn í raðir samtakanna smeygja sér menn sem þangað hafa ekkert að gera, nema að draga úr þeirri baráttu sem fyrir var háð. Allskonar metorðastritarar sem verða sífellt að vera að maka krókinn En annað kemur einnig til þ.a.s. sú staðreynd að meðvitund alls þorra herstöðvaandstæðinga nær ekki lengra en út fyrir síður Þjóðviljans. Það að halda veglegar Keflavíkurgöngur með ákveðnu millibili sé lausnin. Að tala um allt daglegt starf og baráttu þekkist ekki í þeim herbúðum. Markmiðið er að nota þessar "árvissu" göngur til kosningsmölunar fyrir alþingiskosningar.

En þrátt fyrir þetta er til fjöldinn allur af fólki sem skilur að við verðum að taka þátt í hinni daglegu baráttu, sem felst meðal annars í því að koma saman í hverfahópunum og vinna þar að ýmsum verkefnum t,d, útgáfu dreifibréfa, rannsóknum á afleiðingum af veru hersins hér á landi og margt fleira.

Undanfarin ár hafa verið til hópar víðsvegar á landinu þó aðalega í Reykjavík og nágrenni. Starf þessara hópa hefur verið ærið handahófskennt og lítt skipulagt en þó hefur sumum þeirra tekist að komast út úr þessari þoku allskyns hafta. Einn hópur hefur skorið sig úr nú í vetur hvað þetta varðar en það er Vesturbæjarhópurinn. Þar hafa verið haldnir reglulega fundir og það sem meira er um vert árangur þeirra er nú óðum að koma í ljós (hefur reyndar komið allvel í ljós).

Sem dæmi má nefna að nýlega fór hann í heimsókn til "verndarans" til að kanna mengunina sem af veru hans stafar. Í framhaldi af því var gefið út dreifirit um þetta efni sem ber nafnið "Brunnmígar Suðurnesja, Olíumengun frá hernum ógnar vatnsbólum Suðurnesjamanna". Því kemur margt athyglisvert fram svo sem að sérfræðingar sem um þessi mál fást segja að". Í raun ríki hættuástand á þessu svæði og hugsanlegt sé að grunnvatn sem er í notkun kunni að mengast fyrr eða síðar (undirstrikun okkar). Hvað gerist ef grunnvatnið mengast?

Jón Jónsson jarðfræðingur komst svo að orði um þetta efni á umhverfismálaráðstefnu í stapa 7.-8 maí 1975 (heimild Suðurnesjatíðindi 16. maí 1975 "Það má segja að ef svo fer að olía fer niður í grunnvatnið þá er það vatnsból eyðilagt um alla framtíð",...og:"Ef olía hefur farið niður í jarðveginn getur hún komið fram eftir áratugi....."

Allir aðilar sem um þessi mál eiga að sjá vísa hver á annan og enginn gerir neitt. Mikið hefur verið skrifað um þessi mál í Suðurnesjatíðindi og samdar skýrslur til ráðuneytanna, Utanríkis og heilbrigðis, en utanríkisráðerra þykist ekkert vita.

Útkoma þessa dreifirits hefur vakið verðskuldaða athygli þeirra sem séð hafa og lesið. Þarna er í fyrsta sinn allt tekið saman í stuttu máli sem vitað er um þetta mál.

Vesturbæjarhópur Samtaka herstöðvaandstæðinga hefur gert fleira. Hann útvegaði sér aðstöðu á útimarkaðinum á Lækjartorgi þar sem á boðstólnum var allt útgáfuefni SHA, dreifði dreifibréfinu og hélt uppi áróðri fyrir brottför hersins og úrsögn Íslands úr NATO. Er mál manna að aðgerðir þessar hafi í flestu tekist með ágætum og brýn nauðsyn væri að halda þessu áfram.

Samtökin verða sífellt að koma út meðal fjöldans og taka þátt í baráttunni, og falla ekki í þá gryfju að láta sjálfsprottna hreyfingu fjöldans vera leiðarljósið í baráttunni.

Það verður að vera til stefnuskrá og áætlun um hvernig við eigum að heyja baráttuna.

Einungis á þann hátt getur barátta okkar orðið árangursrík.

ÍSLAND ÚR NATO
HERINN BURT.

# Fréttir frá SHA

Stéttabaráttan leitaði frétta af starfi Samtaka herstöðvaandstæðinga og fer hér á eftir stutt yfirlit yfir sitthvað sem er í gangi eða er á döfinni.

## Dagfari

Nýr Dagfari kom út 15. des. Í honum eru m.a. ályktanir frá síðustu landsráðstefnu SHA, greinar eftir Gils Guðmundsson og Árna Björnsson um sögu baráttunnar gegn hernum og NATO, innan sem utan Alþingis, og sitthvað fleira. Blaðinu verður dreift til félaga í samtökunum. Næsta blaði mun verða dreift í stóru upplagi um land allt og verður það aðallega helgað 30. mars.

## Vesturbæjarhópur

Vesturbæjarhópur herstöðvaandstæðinga hefur gefið út veglegt dreifirit um mengun á Suðurnesjum af völdum hersins. Er dreifiritið afrakstur upplýsingaöflunar sem hefur verið aðal starf hópsins undanfarið. Verður þetta framtak hópsins vonandi öðrum herstöðvaandstæðingum til hvatningar.

## Jólakort

Hafnarfjarðarhópur SHA hefur nýlega gefið út jólakort með mynd eftir Sigurð Örn Brynjólfsson við ljóð eftir Guðmund Böðvarsson. Hópurinn fjármagnar útgáfu kortsins með útgáfu á plakati sem hann gaf út í fyrra.

## 30. mars.

Undirbúningur veglegra aðgerða í tilefni 30 ára veru Íslands í NATO, er nú í fullum gangi. Er ætlunin að standa fyrir fjölbreyttri menningarviku, fundum o.fl.

Fjöldi listafólks úr ýmsum greinum tekur nú virkan þátt í undirbúningi dagskrár. Ætlunin er m.a. að halda stóra tónleika, myndlistarsýningu, bókmenntavöku, fjöldafund og fleira. Skrifuð hafa verið bréf til myndlistarmanna og rithöfunda þar sem þeir eru beðnir að láta verk til dagskrárinnar. Á tónlistarsviðinu munu koma fram trúbadorar, söngsveitir og stærri hljómsveitir og verða flutt bæði frumsamin og eldri verk.

Þeir sem hafa eitthvert efni fram að leggja ættu að hafa samband við skrifstofu SHA sem fyrst.

## Erindrekstur

Áformað er að halda fundi víða um land í lok janúar og í febrúar. Hafa þegar borist beiðnir frá nokkrum stöðum um að miðnefnd sendi fulltrúa á þessa fundi.

## Leshringir

Verið er að undirbúa leshringi um herstöðvamálið og verða þeir bæði notaðir á fundum sem SHA stendur fyrir og af hópum í skólum.

## Happdrætti

Drætti hefur verið frestað í happdrætti SHA til 15. janúar. Ýmis myndlistarverk eru í boði og kostar hver miði kr. 2.000.- Þeir sem fengið hafa miða senda eru hvattir til að gera skil hið fyrsta og hinum sem enga miða hafa fengið er auðvitað bent á að kaupa þá.

TAKIÐ ÞÁTT Í STARFINU!






 Heimshorna á milli

# Hvernig starfa verkalýðsfelög í Kína?

Viðtal við Ma Chun-ku, leiðandi félaga í Sambandi kínverskra verkalýðsfélaga. (Peking Review nr. 49 8. des. 1978.)

Að loknu níunda þingi kínverskra verkalýðsfélaga var eftirfarandi viðtal tekið við Ma Chun-ku. Þessi 71árs verkamaður sem tekið hefur þátt í verkalýðsbaráttu í yfir hálfa öld svaraði nokkrum spurningum blaðamanns Peking Review um, eðli , einkenni og markmið starfs verkalýðsfélaga í Kína.

Fer viðtalið hér á eftir:



Verkamannanefnd hlustar á skýrslu yfirmanna.

Spurn.: Hver er munurinn á markmiðum verkalýðsfélaganna nú og fyrir byltinguna?

Svar: Eins og þú veist var verkalýðurinn kúgaður og arðrændur fyrir frelsun. Stéttarfélög sameinuðu þá baráttu sína og vopnuðu baráttuna undir leiðsögn Kommúnistaflokks Kína. Félagar stéttarfélaganna voru skipulagðir í pólitíska og efnahagslega baráttu gegn heimsvaldastefnu og Kuomintang afturhaldssinnunum og stéttarfélögin sameinuðu fólk af öllum þjóðfélagsstigum til að hrinda aftur yfirráðum heimsvaldasinna, lénsmanna og kapítalískra stjórnarhátta. Markmið félaganna var að stofna lýðræðislegt lýðveldi alþýðunnar.

Eftir frelsun hefur verkalýðs stéttin orðið leiðandi stétt í ríkisvaldinu. Almenn markmið stéttarfélaganna eru að skipuleggja verkafólk og starfsfólk til að treysta alræði öreiganna og ljúka markmiðum sósíalísku byltingarinnar og uppbyggingarinnar.

Spurn.: Hvers vegna eru stéttarfélög enn nauðsynleg í Kína fyrst grundvallarhagsmunir leiðtoga og fjöldans eru þeir sömu? Hvert er eðli stéttarfélaganna?

Svar: Kínversk verkalýðsfélög eru fjöldahreyfingar byggðar upp af verkafólki á grundvelli sjálfboðaliðsstarfs. Þau viðurkenna leiðsögn Kommúnistaflokks Kína, framvarðar verkalýðsstéttarinnar, sem í staðinn viðheldur nánum böndum við verkalýðinn gegnum stéttarfélögin.

Stéttarfélögin eru styrk stoð undir alræði öreiganna. Þau eru líka nauðsynleg verka- og starfsfólki þar sem þau mennta fólkið. Í daglegu starfi og lífi getur það komið fyrir að lýðræðislegur réttur og brýn hagsmunamál verkalýðs og vinnandi fólks séu fótum troðin vegna skriffinnskustarfshátta sem eru arfur frá gamla þjóðfélaginu. Í slíkum tilfellum verndar stéttarfélagið þessi réttindi og hagsmuni í samræmi við reglur flokks og ríkis. Þannig eru stéttarfélögin framvörður í baráttu verkafólks gegn starfsháttum skriffinnskunnar.

Spurn.: Hver eru tengslin milli stéttarfélaganna og framkvæmdastjórna fyrirtækja?

Svar: Í Kína ræður verkalýðurinn fyrirtækjunum og ríkisvaldinu. Stéttarfélögin og stjórnir fyrirtækjanna vinna að því sama markmiði að uppfylla hin ýmsu verkefni sósíalískrar byltingar og uppbyggingar. Þess vegna ætti þetta tvennt að styðja hvort annað. Stéttarfélögin eiga að þjálfa verkafólk í því að framfylgja sameiginlegum ákvörðunum í framleiðslustörfum og öðrum mikilvægum störfum.

Á hinn bóginn vernda stéttarfélögin lýðræðisleg réttindi verkafólks og starfsfólks og hafa eftirlit með því að framkvæmdastjórnir fyrirtækjanna fari eftir lögum og reglum um réttindi verkafólks hvað varðar laun, öryggi á vinnustað og annað sem fyrirskipað er í lögum ríkisins. Einnig sjá stéttarfélögin um að hagur verkafólks batni stöðugt þannig að lífsskilyrði verkafólks verði sífellt betri. Stéttarfélögin eiga líka að sjá um að í heiðri sé höfð grundvallarregla sósíalismans varðandi laun, að sérhver láti í té samkvæmt getu sinni og fái í laun samkvæmt vinnu sinni til að frumkvæði verkamanna og starfsfólks í framleiðslu og öðrum störfum njóti sín til fulls.

Spurn.: Hvaða skilyrðum þarf að fullnægja til að geta gerst félagi stéttarfélags og hvernig eru stjórnir þeirra valdar?

Svar: Allir sem tilheyra verkalýðsstéttinni, hvort sem þeir inna af hendi andleg eða líkamleg störf geta orðið félagar stéttafélaga, háð því skilyrði að einu tekjur þeirra séu laun. Sem fjöldahreyfingar eru stéttarfélögin opin öllum verkamönnum og starfsmönnum utan lítils hóps afturhaldssamra afla.

Mikill meirihluti kínverskra menntamanna sem vinnur andleg störf tilheyrir verkalýðsstéttinni og má ganga í stéttarfélögin.

Fjórmenningarnir rugluðu hinsvegar móthverfunni milli andlegrar og líkamlegrar vinnu innan verkalýðsstéttarinnar saman við ósættanlega stéttamóthverfu. Þannig útilokuðu þeir verkafólk sem vann andleg störf á sviði menningar, mennta, heilsugæslu, vísinda og tækni og klufu þannig verkalýðsstéttina. Þessar kenningar fjórmenninganna ganga þvert á kenningar marx-lenínismans og Maó Tsetung.

Stjórnir verkalýðsfélaganna eru kosnar af verkamönnum og starfsmönnum. (Þær eru líka afsetjanlegar hvenær sem er, innsk. Stb,). Í stærri fyrirtækjum með yfir þúsund verkamenn eru þær kosnar á þingum verkalýðsfélaga en í smærri fyrirtækjum, með 100 til 200 verkamenn, eru þær kosnar beinni kosningu á aðalfundi.

Spurn.: Hvernig geta stéttarfélögin tryggt rétt verkafólks til að vera eigin herrar og hvernig tryggja þau lýðræðislega stjórnun fyrirtækja?

Svar: Lýðræðisleg stjórnun er aðallega gegnum þing og aðalfundi verkamanna og starfsfólks. Þing þessi og fundir eru leidd af flokknum.

Verkalýðsfélögin sjálf eru vinnuhópar þinganna og almennu fundanna. Eins og tekið er fram í lögum verkalýðsfélaganna eru þing eða aðalfundir haldin einu sinni á ári og þar eru rædd öll meiriháttar mál fyrirtækisins. Leiðandi menn fyrirtækjanna verða að gefa skýrslu um starf sitt, leita eftir gagnrýni á starfið og viðurkenna eftirlit verkamannanna. Milli þinga eða aðalfunda sjá verkalýðsfélögin um daglegt starf, leita álits fjöldans, og starfa samkvæmt og reyna að hrinda í framkvæmd ákvörðunum þingsins.

Nýlega var ákveðið að framvegis skuli yfirmenn verkstæða, deildarstjórar og hópaformenn kosnir af verkamönnum. Þingið eða aðalfundur verkamanna hefur einnig rétt til að leiðrétta starf fyrirtækis, gagnrýna, gefa leiðbeiningar og fyrirskipanir. Á sama hátt hefur það leyfi til að mæla með því við æðri einingar að ákveðnum leiðandi félögum verði refsað eða þeir verði leystir frá störfum ef þeir hafi ekki sinnt skyldum sínum.

Spurn.: Hvernig geta verkalýðsfélögin tryggt velferð verkamanna og starfsfólks?

Svar: Í Kína treystir ríkið verkalýðsfélögunum fyrir því verkefni að sjá um sjóði almannatrygginga. Í samræmi við þróun þjóðarhagsins hefur reglum almannatrygginga verið oftlega breytt til að auka fjölda umsókna og upphæð greiðslna. Allir verkamenn og starfsmenn fá ókeypis læknisþjónustu og eftirlaun sem nema allt að 70% af fyrri launum. Auk þess að leggja fram fé til þessara sjóða leggur ríkið einnig fram fé í sjóði fyrir mötuneyti, barnaskóla, barnaheimili, staði þar sem mæður geta gefið brjóstabörnum, auk annarra félagslegra umbóta.

Verkamenn og starfsmenn njóta allra bóta almannatrygginga án þess að leggja nokkurt fé til sjóðanna. Fjölskyldur þeirra njóta einnig sjóðanna vegna barnsburðar, dauða og fá læknisþjónustu (greiða aðeins helming læknisþjónustunnar). Allar verkakonur og aðrar vinnandi konur fá barnsburðarleyfi og einn frítíma á degi hverjum í ár eftir leyfið til að gefa brjóstabarni.

Vegna þess að Kína er efnahagslega á eftir er ómögulegt að auka þessar bætur stórlega á skömmum tíma. Um leið og verkalýðsfélögin hvetja forráðamenn fyrirtækja til að bæta sem unnt er vinnuskilyrði, lífsskilyrði, mataraðstöðu og heilbrigðisþjónustu þá skipuleggja þau verkamenn og starfsfólk til að hjálpa hverjir öðrum. Í mörgum fyrirtækjum eru til sameiginlegir sjóðir sem verkamenn greiða í mánaðarlega (þetta eru frjáls framlög hvers og eins, venjulega 1-2% af launum). Fénu er skilað til þeirra sem það lögðu fram í lok hvers árs. Allir verkamenn geta fengið lánað út þessum sjóðum ef sérstök vandamál steðja að. Lánin eru vaxtalaus. (Þeim sem undrast "vaxtastefnuna" er rétt að benda á að í Kína er engin verðbólga. Ath. þýðenda)

Spurn: Getur þú sagt okkur eithvað um alþjóðleg samskipti kínverskra verkalýðsfélaga við erlend félög af sama toga?

Svar: Fyrstu tíu árin eftir byltingauna voru mikil samskipti kínverskra og erlendra verkalýðsfélaga. Síðan minnkuðu þessi samskipti niður í næstum ekki neitt vegna truflunar af völdum Lin Piao og "fjórmenninganna". Síðustu tvö árin hafa 35 sendinefndir frá verkalýðsfélögum og verkamönnum í 15 löndum heimsótt Kína og sex kínverskar verkamannasendinefndir hafa heimsótt fimm erlend ríki. Níunda þingi kínverskra verkalýðsfélaga er ný lokið. Það ákvað að auka vinsamleg samskipti við erlenda verkalýðshreyfingu í anda leiðbeininga Maós um stefnuna í utanríkismálum.



Nýr forstjóri og varaforstjórar Prentsmiðju númer 1. í Sjanghæ. Fyrrverandi forstjóra var vikið frá en hann hafði dregið sér fé úr sameiginlegum sjóðum fyrirtækisins til kaupa á litsjónvarpstæki handa sjálfum sér. Þar eð hann viðurkenndi afbrot sitt á almennum fundi verkamanna og endurgreiddi féð, ákváðu verkamennirnir að refsa honum ekki en svipta hann hinsvegar öllum embættum.



# Morðið á Malcolm Caldwell

Á jólanótt barst frétt um að breski blaðamaðurinn Malcolm Caldwell hafði verið myrtur í Pnom Penh. Malcoln Caldwell var, er þetta skeði staddur á gistiheimili einu er ríkisstjóri Kambódíu hafði til afnota fyrir erlenda gesti og var hann þar ásamt tveim bandarískum blaðamönnum. Árásin var framkvæmd af þremur mönnum, vopnuðum skammbyssum og vélbyssum. Auk Malcolm Caldwell féll einnig einn af öryggisvörðum hússins. Fljótt var brugðist við gegn árásarmönnum og var einn þeirra handsamaður og annar framdi sjálfsmorð er hann sá að hann átti ekki undankomu auðið. Þriðji árásarmaðurinn komst undan.

## Hver var þessi Malcolm Caldwell?

Eins og komið hefur fram hér að framan var Malcolm Caldwell breskur blaðamaður. Hann var 47 ára gamall er hann féll fyrir quislinga-kúlum í Pnom Penh.

Malcolm Caldwell var ötull talsmaður Pol Pot í Kambódíu. Hann var vel kunnugur um málefni Suðaustur Asíu, en hann hafði ferðast um hvert einasta land á þessu svæði. Annars var hann hagfræðingur að mennt og fyrir utan ritstörf var hann ráðinn við skóla fyrir austurlanda-og afríska stúdenta í tengslum við Lundúnarháskóla.

Malcolm Caldwell hefur líka verið þekktur fyrir afskipti af öðrum málum, og var hann um tíma formaður anti-atóm hreyfingarinnar í Englandi. Þó Malcolm hafi verið einlægur stuðningsmaður stjórnar Pol Pot í Kambódíu þá var hann ekki kommúnisti, heldur lýðræðissinni, og meðlimur í Verkamannaflokknum. Hann hafði fjallað lengi um málefni Kambódíu og til dæmis kom út bók eftir hann 1973 er hét "Kambódía í Suðaustur Asíustríðinu".

## Hvers vegna var hann myrtur?

Til þess að svara þessari spurningu þarf reyndar ekki að leita langt. Það hefur löngum verið ofarlega á óskalista andstæðinga Kambódíu að þagga niður í honum. Og hefur það jafnt gilt um stuðningsmenn sovéska heimsvaldastefnunnar sem lengi hafa sóst eftir áhrifum í Kambódíu, eins og þeim hefur tekist í Víetnam og Laos, sem og hinna er bara studdu gömlu ógnarstjórn Lon Nol. Um það síðarnefndu má nefna, að þegar þeir settu á svið sýndarréttarhöld í Osló í apríl 1978, um ástandið í Kambódíu, var honum neitað um að verða yfirheyrður þó svo að hann hefði ferðast fram og aftur um allt þetta svæði. Enda vissu aðstandendur sjónleiksins að hann gat hrakið allar þær sögur sem þarna voru bornar upp, en það hafði hann gert við ýmis tilefni.

En það voru vafalaust flugumenn þeirra quislinga sem nú eru notaðir til að vera dula yfir innrás Víetnama. Morðið hefur átt að sverta stjórn Pol Pots í augum alþýðu heims ins.

Það er athyglisvert að Þjóðviljinn afhjúpar þessa áætlun vel. Blaðið fjallaði um morðið 30. des.1978, og er um að ræða þýdda grein úr danska "vinstri" blaðinu "Information". Þar stendur orðrétt:

"Ekki er loku fyrir það skotið að nú verandi stjórnvöld í landinu hafi haft hönd í bagga með að myrða Caldwell. Ferill þeirra síðan þau komust til valda 17. apríl 1975 hefur ekki verið fallegur, né einkennst af skynsemi. Stjórnin er heldur ekki traust í sessi. Í fyrra urðu miklar hreinsanir í efstu valdastöðum eftir misheppnaða byltingartilraun. Í kjölfarið fylgdu fjöldamorð og aftökur að sögn flóttamanna."

Þar er einnig reynt á afkáralegan hátt að gera afstöðu Malcolm Caldwell til málefna Kambódíu torkennilega.:




Malcolm Caldwell á blaðamannafundi í Osló 17. apríl. Á þriggja-ára afmæli frelsunar Kampuchea.

"Stuðningur Caldwells við steinaldrasósíalisma Kambódíumanna má eflaust afsaka með þeirri óbeit sem hann hafði á hræsni Bandaríkjamanna eftir Víetnamstríðið. Menn sem höfðu þúsundir lífa Kambódíumanna og Víetnama á samviskunni byrjuðu skyndilega að tala um mannréttindi á þessum slóðum."

Báðar tilvitnairnar eru úr Þjóðviljanum 30.12.'78 Hvað steinaldrasósíalismi er vitum við ekki.

Ekki er reynt á neinn hátt að hrekja það sem Malcolm hefur sagt eða skrifað um rannsóknir sínar á þessum málum, heldur aðeins að gera hann torkennilegan, alþekkt bragð þeirra er hafa slæman málstað að verja.

Morðið á Malcolm er mikið tjón fyrir þá sem hafa tekist á við að afhjúpa þær lygar sem búnar hafa verið til um Kambódíu undir stjórn Pol Pots.

Þar er við öfluga áróðursvél að eiga, og hefur ekki verið hægt að koma hníf á milli aðdáenda sovésku og bandarísku heimsvaldastefnunnar, enda hafa þeir allt kemur til alls sama markmið, að drottna, aðeins eru þeir ósammála hverjum skal veita "heiðurinn".

## FRÁ LEIGJENDASAMTÖKUNUM

Nú hafa leigjendasamtökin starfað í hálft ár. Þrátt fyrir stutta ævi þá sést þegar nokkur árangur af starfinu. Nú er verið að leggja fyrir alþingi tillögur frá nefnd sem félagsmálaráðherra skipaði síðastliðið haust. Í þessari nefnd hafa leigjendasamtökin einn fulltrúa.

Þessi meðbyr sem leigjendur hafa fengið í þingsölunum er vel skiljanlegur ef það ef haft í huga að nýlega hafa farið fram kosningar, þar sem loforð um bætt kjör alþýðu voru á útsölu. Því var ekki að undra að margir voru til þess að taka undir kröfur hinna nýstofnuðu leigjendasam taka. En þessi meðbyr endist varla lengi frekar en aðrir vindar svipaðs eðlis. Áframhaldandi sókn fyrir réttindum leigjenda verður í höndum leigjenda sjálfra, því enginn gerir það fyrir þá.

Þetta er stjórn leigjendasamtakanna vel ljóst, og er ætlunin að reyna að gera samtökin að öflugri fjöldahreyfingu

Ætlunin er að stofna á ný starfshópa um ýmis mál. Hóparnir sem ætlunin er að stofna, eru:

1. Lagahópur. Til þess að leigjendasamtökin geti virkað sem mótandi afl í þeirri lagagerð sem nú fer fram, þannig að leigjendur beri þar ekki skertan hlut frá borði þá verða þau að fylgjast náið með þeim tillögum sem fyrir liggja og dæma um gildi hinna einstöku greina, út frá hagsmunum leigjenda. Einnig verða leigjendur að fylgjast með framkvæmd þessara laga, svo hægt sé að taka afstöðu til krafna um lagfæringa lögunum og koma í veg fyrir að troðið sé á þeim rétti leigjenda er náðst hefur í lögunum.

2. Blaðhópur. Mikið skortir á að leigjendur viti um þann rétt sem þeir hafa í dag. Til þess að koma upplýsingum til félagsmanna og annara leigjenda,er nauðsynlegt að hafa eitthvert málgagn. Það ætti líka að geta virkað sem tengiliður milli leigjenda.

3. Fjármálahópur. Fjármál- in eru og verða alltaf mikill hausverkur fyrir samtök sem eitthvað starfa. Það er því nauðsynlegt að þau séu tekin föstum tökum allt frá byrjun, þannig að þau dragi ekki úr starfsemi samtakanna.

4. Útbreiðslu-og skipulagshópur. Ef samtökin eiga að vera einhvers megnug í framtíðinni, verða leigjendur almennt að starfa að hagsmunamálum leigjenda. Til þess að það sé mögulegt að fá fólk til starfa þá þarf skipulag. Skipulagið þarf að fela í sér tvo meginþætti.

Það þarf að stuðla að samhæfðum árangri í starfi hinna einstöku hópa, og virkja fjöldann í þessu starfi.

Ætlunin er að fá í gang hópa í flestum hverfum borgarinnar og út á landi þar sem leigjendur er að finna.

# *Lærum af Norman Bethune*



Norman Bethune lést 12. nóvember 1939 í Kína er þjóðarstríðið gegn japönum stóð sem hæst. Norman Bethune sem var félagi Kommúnistaflokks Kanada og mjög virtur skurðlæknir var sendur til Kína af kommúnistaflokkunum í Kanada og Bandaríkjunum árið 1937. Fórnfýsi hans, ábyrgðartilfinning og umhyggja fyrir kínversku þjóðinni og félögum sínum var slík að hún ávann sér virðingu allrar þjóðarinnar. Maó Tsetung sagði:"Hvaða andi fær útlending til að gera frelsun kínversku þjóðarinnar að sínum málstað og vinna fyrir það óeigingjarnt starf? Það er andi alþjóðahyggjunnar, andi kommúnismans og af honum verður hver einasti kínverji að læra".



# *"Skólinn er heimili okkar"*

Árið 1976 urðu miklir jarðskjálftar í Tangshan í Kína. Meira en 400 börn misstu foreldra sína. Þessi börn fá uppeldi og aðhlynningu í Yuhungskólanum í Shichiachuang, höfuðborg Hopeifylkis. Þessi skóli er byggður fyrir munaðarleysingja frá Tangshan. Þar starfa 200 manns, kennarar, hjúkrunarfólk, matráðsfólk o.s. frv. Þeir taka börnunum sem sínum eigin og ganga þeim í foreldra stað. Rúmu ári ári eftir jarðskjálftana spurði gestkomandi eitt barnanna hvernig það væri að eiga heima á skóla. Barnið svaraði: Skólinn er heimili okkar.




AEROFLOT: Notað í hernaðarbrölti Sovétríkjanna.

Sovéska flugfélagið Aeroflot er notað í sífellt ríkari mæli í hernaðarbrölti Sovétríkjanna og verður því að skoðast sem mikilvægur hluti af styrkleika sovésku heimsvaldastefnunnar. Fjöldi flugvéla í farþegaflugi hefur aukist gífurlega síðustu árin, þannig að Aeroflot hefur nú 2500 flugvélar í millilandaflugi.

Aeroflot leggur mikla áherslu á flug til landa 3ja heimsins, til dæmis til Asíu þar sem Aeroflot hefur byggt net flugleiða og ræður samgöngum í lofti til og frá mörg um Asíuríkjum. Þannig verða þau ríki háð millilandaflugi Sovétríkjanna.

Þegar herir Sovétríkjanna réðust inn í Tékkóslóvakíu 1968 voru flugvélar Aeroflot notaðar við flutninga á innrásarliðinu og hergögnum. Starfsfólk Aeroflot skrifstofanna í Prag þjónaði líka innrásinni sem tengiliðir.

Fram til 1972 fór mestallur flutningur sovéskra hermanna og hergagna til Austur-Evrópu fram með járnbrautum en síðan hafa flutningarnir í aðalatriðum farið fram með flugvélum Aeroflot, auk flugvéla hersins.

Sovétmenn búa í dag yfir afli til að flytja 7 herdeildir frá vestari hlutum Sovétríkjanna til Vestur-Þýskalands á einni viku. Að stærstum hluta eru Aeroflot flugvélar notaðar til stærri flutninga eins og þegar 25.000 kúbanskir og sovéskir hernaðarráðgjafar og 60.000 tonn vopna voru flutt til Angóla í borgarastyrjöldinni þar. Í þessum tilvikum voru einnig notaðar farþegaflugvélar frá öðrum austantjaldsríkjum.

Sovéskar farþegaflugvélar hafa einnig flutt hernaðarráðgjafa og hergögn til Víetnams til að taka þátt í innrásinni í Kampuchea.

Sovétmenn nota einnig starfsmenn Aeroflot erlendis til njósna. Aeroflot skrifstofurnar erlendis eru í raun og veru mikilvægur liður í njósnaneti KGB.

Til viðbótar síaukinni notkun farþegaflugvéla í hernaðarlegum tilgangi hafa sovétmenn einnig byggt fleiri og fleiri flugvelli á hernaðarlega mikilvægum stöðum í Sovétríkjunum.

Á þessu sést að styrjaldarundirbúningur Sovétríkjanna er ekki hugarfóstur kommúnista heldur hlutir sem gerast beint fyrir framan nefið á okkur.
(Byggt m.a. á Klassekampen og Hsinhua).



*Bessan:*

# Synir Palestínu deyja aldrei



Ég er miður mín vegna alls þess sem ég hef gert,
þú verður að fyrirgefa að ég þekkti þig ekki betur.
Mér þykir leitt að hafa ekki skilið þig nægilega...
Ég var skammsýn,
þú verður að fyrirgefa hve oft ég setti ofan í við þig,
eigingirni..en..

Baráttan fyrir málstaðinn færði okkur nær hvort öðru.
Þú varst hlýr, ég var hrjúf,
en þú hélst þínu striki, þú þráðir ástina,
þú þráðir mig, því í þínum augum var ég ástin...

Þú lofaðir, að það yrðu ekki fleiri sígarettur.
Engar svefnlausar nætur.
Því þú varst hjá mér, elskan mín,
en nú ...ertu horfinn...

Ég minnist drauma okkar um framtíðina.
Giftast, eiga börn, snúa heim.
Heim til appelsínutrjánna, til Jaffa,
til Palestínu...

Þú kysstir mig ákaft þá nótt,
það rigndi...þú varst á leið í sendiför.
Ég gaf þér hálsmen, mitt helga tákn,
ég þráði þig, því ég fann ást þína
er þú kysstir varir mínar og nef.

Ég kvaddi þig aftur og aftur,
ég stóð hreyfingarlaus við jeppann og man orð þín:
"Ég sný aftur til að hitta Alí!"
Alí...soninn sem okkur langaði að eignast.
Hluti af draumum okkar.

Við ætluðum að giftast er þú kæmir aftur:
"Þetta verður stutt sendiför," hafðir þú sagt,
"hafðu ekki áhyggjur, ég ber þitt helga tákn,
þú ert með mér, ást þín fylgir mér."

"Ég hrópa nafn Jaffa þegar ég berst,
ég ákalla appelsínutrén, helgu eyðimörkina,
hólin, fjöllin,
Palestínu."

Að viku liðinni var dyrabjöllunni hringt.
Ég hljóp fagnandi til dyra, ímyndaði mér að þú værir kominn.
Andlit birtist mér, það var félagi þinn,
þetta andlit ljómaði af stolti...
Ég sá tár...

Var það vegna óttans sem ég hörfaði,
óttann við að heyra sannleikann?
Félagi þinn með byssuna brosti,
en gegnum brosið greindi ég tár.
"Segðu það," bað ég, skipaði, æpti...

Hann þagði og horfði í tárvot augu mín,
ég starði eins og í leiðslu
á máttinn í augum hans, aflið í höndunum,
þegar hann rétti mér poka...

Ég sá höfuðfat þitt, byssuna, hnífinn,
eigur þínar, ég sá þig í þessum poka,
mig langaði að finna nærveru þína,
en það var of seint, ég gat ekki fundið hana...

Allt var á sínum stað, beltið þitt og skyrtan
blóði storkin og aurug, en...
hún var hluti af þér, þar fann ég nærveru þína.

Félagi þinn hafði ekki augun af mér,
hann rétti mér tvo hluti.
Hring og heilagt tákn...
"Hann lét lífið í bardaga, vertu stolt systir, syngdu."

Og ég söng...
Hélt áfram að reisa drauma okkar,
því þú deyrð aldrei, píslavottar deyja aldrei,
synir Palestínu deyja aldrei...

(Sigurður Jón Ólafsson þýddi úr ensku)

---

*Dave Wallis*

KVÆÐI UM

# Palestínska páska

I

Það væri í lagi
ef þeir hefðu tekið land okkar, án þess að hrópa af gleði.
Það væri í lagi
ef þeir hefðu tekið land okkar, án þess að lýsa því sem guðs vilja.
Það væri í lagi
ef þeir hefðu aðskilið fjölskyldur okkar, án þess að fullyrða að
við ættum engan tilverurétt.
Það væri í lagi
ef þeir hefðu kastað napalm-sprengjum, án þess að skála fyrir því.
En allt þetta gerðu þeir.
Hve grimmileg örlög þeir hafa búið okkur.

II

Veist þú eitt
sem ég veit: eitt horfið föðurland.
Veist þú annað
sem ég veit: tvær hendur krepptar um riffil.
Veist þú það þriðja
sem ég veit: þrír skriðdrekar gegn grjótkasti.
Veist þú hið fjórða
sem ég veit: fjórar eyddar borgir.

Fjórar eyddar borgir.
Þrír skriðdrekar á ferð.
Aðeins tvær hendur.
Eitt horfið föðurland.

III

Svo komu flugvélarnar
frá Ameríku
þær köstuðu napalm-sprengjum
og brenndu börnin okkar,
sem eitt sinn höfðu búið
í landi okkar, Palestínu.

Ungu mennirnir,
sem eitt sinn voru drengir
ungu konurnar,
sem eitt sinn voru stúlkur
unga fólkið,
sem eitt sinn voru börn,
þau eru nú skæruliðar,
sem berjast í þágu föðurlands okkar, Palestínu.

(Sigurður Jón Ólafsson þýddi úr ensku)



# Réttur ófrískra kvenna

framhald af baksíðu

á þeim tíma getur hún því fastlega reiknað með að vera atvinnulaus það sem eftir er meðgöngutímans og fá þar af leiðandi ekkert fæðingarorlof greitt.

Jafnvel þótt konu sé sagt upp á óréttmætum forsendum, á hún ekki vísan stuðning verkalýðsfélagsins, því það er atvinnuleysistryggingarsjóður verkalýðsfélagsins sem borgar fæðingarorlofið. Innan forystuliðs verkalýðshreyfingarinnar finnst nefnilega fólk sem lítur á það sem hlutverk sitt að gæta eigin hags, en ekki verkafólks, og liggur eins og ormur á gulli yfir sjóðum hreyfingarinnar. Kona verður að hafa skilað ákveðnum fjölda vinnustunda árið áður en hún fæðir, til þess að eiga rétt á fæðingarorlofi. Hafi hún ekki náð þeim tíma vegna atvinnuleysis losnar félagið við að borga henni.

## Fæðingarorlof.

Fæðingarorlof kvenna er mjög mismunandi.

Þær sem eru yngri en 16 ára er þær verða mæður, eiga ekki rétt á neinu fæðingarorlofi, því þær eru ekki fullgildir félagar í stéttarfélagi og eiga því engan rétt í sjóðum þess. Annars er fæðingarorlof frá nokkrum vikum og upp í 3 mánuði. Best eru þær konur settar sem eru opinberir starfsmenn, að undanskildum þeim sem eru í Sókn.

Annars er þetta fæðingarorlof allt of stutt. Óhæft er að krefja konu um að mæta aftur í vinnu frá 3ja mánaða gömlu barni sínu eða yngra. Einnig verður að leiðrétta það misrétti milli kvenna sem nú ríkir um fæðingarorlof. Það er því ein mikilvægasta krafan nú að krefjast 6 mánaða fæðingarorlofs fyrir allar konur. Allt fæðingarorlof ætti líka að vera greitt af almannatryggingum og óhæfa er að ríkisvaldið geti með lögum skikkað verkalýðsfélögin til að greiða úr atvinnuleysistryggingasjóðum sínum.

## Rauðir hundar.

Enn er ótalinn sá sjúkdómur sem herjar nú á landsmenn, en það er Rauðir hundar. Af skiljanlegum ástæðum óttast margar ófrískar konur þennan sjúkdóm. Fyrir nokkru var upplýst í sjónvarpinu að 20-30 konum hefði þá verið ráðlagt að láta eyða hjá sér fóstri vegna rauðra hunda. Fóstureyðing er ekkert einfalt mál fyrir konur og hefur ekki hvað síst í för með sér sálræna erfiðleika.

Það er því skiljanlegt að ófrísk kona sem ekki hefur fengið rauða hunda skuli vilja fá frí úr vinnu fyrstu 3 mánuðina, sérstaklega ef sjúkdómurinn er að ganga á hennar vinnustað. En fær hún frí úr vinnu í svo langan tíma? Eða verður hún að segja upp? Því miður verður langoftast að velja seinni úrkostinn. Það er líka mjög ólíklegt að konan fái vinnu aftur eftir að hún er komin svo langt á leið.

Margar konur hafa vissulega ekki efni á að vera atvinnulausar í 3-4 mánuði og því síður allan meðgöngutímann og án nokkurs fæðingarorlofs. Það eru því æði margar konur sem þurfa að velja á milli atvinnuleysis eða þess að eiga á hættu að þurfa að láta eyða fóstri eða eignast vanheilbrigt barn. Þannig er nú búið að verð - andi mæðrum þessa blessaðs barnaárs.



# Ófullnægjandi fiskverð

framhald af forsíðu

segjast sjá fram á lokun á næstunni.

Þeim tekst að "sanna" að tap á rekstri fiskiskipa og frystihúsa sé allt að 14%. Þess ber að gæta að þessi tala er meðaltal og hún dylur þá staðreynd að þótt einhverjir tapi þá græða aðrir. Auk þess má benda á að fiskverð hefur aldrei verið hærra á Bandaríkjamarkaði.

Það þarf ekki að koma á óvart þótt um taprekstur sé að ræða. Bolmagn fiskiskipa og fiskverkunarhúsa er miklu meira en nægjanlegt. Hluti fiskiskipastólsins mundi nægja til að afla þess sem nú er aflað.



Þetta er aðeins afleiðing af algerlega stjórnlausri framleiðslu. Það er aðeins eitt markmið með framleiðslu á Íslandi eins og allsstaðar þar sem auðvaldaþjóðfélag er. Það er einkagróðinn. Hagur almennings er látinn víkja fyrir hag auðherranna. Þegar það var "hagkvæmt" að kaupa fiskiskip "fjárfestu" auðherrarnir villt og galið í fiskiskipum alveg burt séð frá þörfinni. Í þessari óðu fjárfestingu nutu þeir aðstoðar almannafjár og ausið var úr bönkum og sjóðum til þessara aðila. Þegar svo allt kemur í óefni þá á að sjálfsögðu að velta öllum afleiðingunum yfir á herðar launafólks, í þessu tilviki aðallega sjómanna.

Ef einkaaðilar geta ekki rekið fyrirtækin er aðeins ein leið fær. Það er að svipta þá yfirráðum yfir fyrirtækinu. Og fá það annað hvort ríkinu í hendur eða launþegum fyrirtækisins.

## Fiskverðið nú er kjaraskerðing.

Samkvæmt áliti forseta sjómannasambandsins, Óskars Vigfússonar, er hægt að sætta sig við þetta fiskverð. Einkum í ljósi þess að verðið er uppsegjanlegt frá og með 1. mars ef almennar kauphækkanir verða meiri en 5%. Auk þess sagðist Óskar vænta "almennra félagslegra umbóta" úr hendi ríkisvaldsins. Óskar benti einnig á að þetta fiskverð væri ákveðið með atkvæði fulltrúa sjómanna.

Þetta er sama sagan og forystumenn verkafólks í landi buðu upp á.

Krafa sjómanna var 14% hækkun hið minnsta. Framkvæmdastjórn sjómannasambandsins samþykkti meira að segja áskorun til sjómanna um að láta ekki skrá sig á skip fyrr viðunandi fiskverð lægi fyrir.

Þessir sömu forystumenn telja þessa ákvörðun brostna vegna hins nýja fiskverðs sem ekki nær lágmarkskröfu sjómanna. Þessa niðurstöðu fá þeir af því að betra verð hefðu sjómenn aldrei getað fengið og vegna svo kallaðra félagslegra umbóta.

Það verður enn augljósari þörf þess að hreinsað sé til innan stjórna launþegafélaga. Þetta fiskverð var ákvörðun fulltrúa ríkisstjórnarinnar, þ.e. embættismanns ríkisins og þeirra fulltrúa í Yfirnefnd Verðlagsráðs sjávarútvegsins. Fulltrúi sjómanna starfaði sem fulltrúi ríkisstjórnarinnar í Yfirnefnd.

Forystumenn sjómanna ætla á sama hátt og forystumenn launþega í landi að sætta sig við verulega kjaraskerðingu gegn óljósum réttindum, pappírsplöggum og loforðum um "félagslegar umbætur".

Sjómenn ættu hins vegar að minnast þess að samstaða þeirra er sterkt vopn.

Nægir í því sambandi að benda á ummæli Óskars Vigfússonar í DB nýlega þar sem hann minnir á það þegar loðnuflotinn sigldi í land í janúar '78 og sjómenn héldu 500 manna fund á Akureyri. Að vísu kom lítið út úr þeim aðgerðum vegna þess að sjómenn fylgdu málum ekki nægjanlega eftir.

En aðgerðirnar sýndu svart á hvítu að samstaða sjómanna er það eina sem útgerðarmenn og ríkisstjórnin hræðist.

# Starfsstúlkur boða verkfall 15 jan.

framhald af forsíðu

á Akranesi eiga kost á láni með 15% vöxtum úr verðtryggðum lífeyrissjóði. Bæjarstarfsmenn sem unnið höfðu yfir 20 ár fengu 56 þús kr í "jólagjöf" frá bæjarfélaginu í desember sl., allir nema þeir sem eru í Verkalýðsfélaginu.

## Tregða stéttarfélaganna

Félög launafólks hafa verið vægast sagt treg til að taka á þessu misrétti.

Þau félög sem náð hafa einhverjum réttindum umfram önnur félög hafa oft viljað sitja ein að þeim af ótta við að ef önnur félög fengju slíkt hið sama skertist þeirra eiginn hlutur. Oft hafa þessi félög orðið að berjast hart til að ná rétti sínum, en þegar þau fá hann láta atvinnurekendur líta svo út sem hér sé um sérstaka náðargjöf að ræða sem veitt sé með því skilyrði að aðrir verði ekki studdir til hins sama.

Slíkar "ívilnanir" eru atvinnurekendur og ríkisvald þeirra fúsastir að veita smæstu hópunum, slíkt hefur minnstan kostnað í för með sér. Tilgangurinn er auðvitað sá að sundra verkafólki með því að mismuna því og einnig að benda á að þeir sem séu í minnstu félögunum geti fengið sitt og reyna þannig að kljúfa verkalýðshreyfinguna í smærri einingar. Þessir herramenn vita nefnilega sem er að það er hin sterka samstaða verkafólks sem færir því umtalsverðustu sigrana.

Því miður hafa ýmis félög fallið fyrir áróðri auðvaldsins. Þannig hefur STAK færst undan því að taka við starfsstúlkum sjúkrahússins og telur að með því að standa þannig upp í hárinu á bæjarstjórninni spilli þeir því "góða" samstarfi sem ríkt hefur þeirra í milli. Þessi óstéttvísa afstaða kemur allt of víða fram, að berjast aðeins fyrir sjálfan sig.

Ekki hefur ástandið verið beisnara hjá þeim félögum sem minni réttindum hafa náð. Þar hefur sú afstaða verið ríkjandi að forystan berjist heldur fyrir sinni eigin tilveru en réttindum félagsmanna. Sókn hefur heldur mælt móti því að starfsstúlkur sjúkrahúsa fengju inngöngu í BSRB eins og aðrir opinberir starfsmenn jafnvel þótt það þýddi miklar kjarabætur fyrir þær. Hins vegar hefur forystan hvergi sparað stóru orðin yfir umhyggju sína fyrir hag láglaunakvenna. Það er engu

framhald á síðu 2.



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims, sameinist!

Stéttabaráttan



Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
1. og 2. tbl. 8. árg. 10.1. 1979

STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.



# Viðtal við Bjarnfríði Leósdóttur

Stéttabaráttan hafði á laugardaginn samband við Bjarnfríði Leósdóttur varaformann Verkalýðsfélags Akraness og spurði hana um gang mála í kjaradeilu starfsstúlkna á sjúkrahúsinu við bæjarfélagið. Fer úrdráttur úr því viðtali hér á eftir.

Fyrst er Bjarnfríður spurð hvort nokkur skriður hafi komist á samningaviðræður undanfarið.

Sagði Bjarnfríður að enginn samningafundur hefði verið haldinn frá áramótum. Reyndar hefði ekkert verið komið til móts við kröfur kvennanna á sjúkrahúsinu. Þrátt fyrir að þær hafi hafið baráttu sína strax eftir samningana 1977. Starfsstúlkur á dagheimilinu og elliheimilinu fengu hinsvegar inngöngu í STAK nýverið. Telur bæjarstjórnin starfsstúlkur sjúkrahússins allt of stóran hóp til þess að það hafi efni á að veita þeim sömu réttindi og öðrum bæjarstarfsmönnum.

Hvaða launaflokk fara þær í sem komast í STAK?

Þær fara í lægsta launaflokk hér, sem samsvarar 6. lfl. BSRB. Þetta gefur þeim um 25 þús.kr. hækkun á mánuði. Bæjarstjórn telur að auknar launagreiðslur og greiðslur vegna ýmissa réttinda til þessa hóps muni kosta í allt um 35-40 millj.kr. á ári.

Hve margar konur hafa fengið inngöngu í STAK og hve margar ekki? Hvaða störfum gegna þessar konur?

Það eru um 20 konur af dagheimilinu og elliheimilinu sem hafa fengið inngöngu í STAK og fá laun samkvæmt samningum þess. Hins vegar er enn eftir að semja um lífeyrissjóðsréttindi þeirra. Eftir eru svo 64 konur sem vinna á sjúkrahúsinu. Annars eru ein og ein kona í hópi starfsstúlknanna sem eru félagar í STAK og fá laun eftir því. Það er því mikill munur á launum þeirra og hinna.

Hverjar hafa undirtektirnar verið í félaginu sem heild?

Kvennadeildin hefur algjörlega stutt kröfur starfsstúlknanna og gengist fyrir máli þeirra. Einstaka óánægjuraddir hafa heyrst en sem heild stendur félagið með þeim.

En undirtektir STAK?

Stjórn STAK hefur ekki viljað beita sér fyrir máli kvennanna og virðist ekki kæra sig um að fá þær í sitt félag. Telur það að bæjarstjórnin muni ekki sýna sér eins mikinn velvilja ef það snýst gegn henni.

Var verkfallsákvörðunin tekin af viðkomandi starfsfólki, eða af félaginu?

Trúnaðarráð alls félagsins heimilaði verkfallið en síðan var kosið um það af starfsfólkinu. Það ríkir mikill einhugur meðal kvennanna.

Nú er mikið hamrað á því að starfsfólk sjúkrahúsa megi ekki fara í verkfall af mannúðarástæðum. Hefur eitthvað verið rætt um undanþágur?

Nei, ekkert. Konurnar eru orðnar reiðar yfir undirtektum bæjarstjórnarinnar. Ef störf þeirra eru talin svo mikilvæg að þær megi ekki fara í verkfall, þá vilja þær líka fá laun í samræmi við mikilvægi vinnunnar.

Sókn í Reykjavík hefur eflaust frétt af þessu. Hafið þið haft eitthvert samráð við þær um þessa stefnumótun, eða frétt af viðbrögðum þeirra?

Við höfum rætt algjörlega óformlega við nokkrar konur í stjórn Sóknar. Það hefur ekkert komið frá þeim um málið en þær fylgjast auðvitað með því af áhuga því niðurstaðan getur skipt miklu máli fyrir þær.



Bjarnfríður Leósdóttir

Er það ekki einsdæmi að verkalýðsfélag reyni að koma hluta félagsmanna sinna inn í annað stéttarfélag?

Ja, við teljum það hlutverk okkar og siðferðislega skyldu að rétta kjör þessara kvenna. Okkur fannst eðlilegt að þær gengju í STAK og héldum að málin leystust auðveldlega þannig. Auðvitað vildum við heldur hafa þær í Verkalýðsfélaginu, en fyrst og fremst berjumst við fyrir því að þær fái sömu réttindi og aðrir bæjarstarfsmenn. STAK hefur verið með frýjunarorð í okkar garð og spurt af hverju við höfum ekki náð því sama fram og þau. Það er nú einu sinni svo að það gengur oft best hjá smæstu hópunum, atvinnurekendur finna minnst fyrir því að verða við kröfum þeirra. En meðan láglaunafólk er til í landinu þá verður það í stærsta hópnum, þeim sem vinnur að framleiðslunni.

Hver hafa viðbrögð annara félaga í ASÍ verið við baráttu ykkar?

Það hefur ekkert heyrst frá þeim ennþá. Ég ætla að taka málið upp á næsta miðstjórnarfundi ASÍ.

Missa konurnar ekki einhver réttindi við að fara í STAK, svo sem verkfallsrétt?

Ég veit ekki betur en opinberir starfsmenn séu einmitt að fá verkfallsrétt núna. Er það ekki eitt af fleiru í "félagsmálapakka" ríkisstjórnarinnar?

Eruð þið sigurvissar?

Það er allavega engin uppgjöf í liðinu. Konurnar eru harðákveðnar í sínu og við munum örugglega hvergi letja þær. Ef bæjarstjórnin semur ekki þá verður bara að fara í verkfall.

---

Það verður fróðlegt að sjá hvað gerist ef starfsstúlkur sjúkrahúsins fara í verkfall.

Áður en meinatæknar fóru í verkfall hlustaði enginn á þær í hálft ár. En þegar þær gengu út á miðnætti fórnuðu yfirvöld höndum í örvæntingu en urðu svo að semja.

# Réttur ófrískra kvenna

Í upphafi þessa blessaðs barnaárs er ekki úr vegi að huga að rétti rétti þeirra sem ala börn í velferðarríkinu Íslandi. Hver skyldi vera réttur þeirra kvenna sem ganga með hin ófæddu börn þessa árs?

Margar konur eiga við veikindi að stríða á meðgöngutímanum. Í fyrstu eru það oft uppköst og síðar verða þær að gæta sín að vinna ekki of erfið störf. En eiga þær ekki kost á veikindafríum og er þeim ekki bara sýnd sú tillitsemi að vera ekki settar í mjög erfið störf síðustu mánuðina? Sem betur fer er það víða, en því miður ekki nærri því alls staðar.

Uppsagnir vegna veikinda.

Starfskraftur sem er oft veikur fær fljótt tiltal frá yfirmanni sínum. Mörgum atvinnurekendum er meinilla við að verkakonur séu ófrískar og reyna að losa sig sem fyrst við þær áður en þær valdi honum "of miklum kostnaði". Og þá er oft ekki verið að vanda meðulin. Sumum konum



Þess eru ótal dæmi frá frystihúsum og verksmiðjum um land allt, að ófrískar konur séu settar í erfiðustu störfin, ef atvinnurekandinn vill losna við þær.

er sagt upp án tilgreindrar ástæðu, öðrum vegna tíðra fjarvista (getur þú fengið læknisvottorð upp á að þú hafir ælt svo mikið í morgun að þú hafir ekki komist í vinnuna fyrr en á hádegi?), og enn öðrum er þvingað til að hætta með því að færa þær í erfiðari störf.

Verkafólk hefur að vissu marki getað rifið kjaft og krafist úrbóta á vinnustað. Atvinnurekendur hafa að vísu oft rekið slíkt fólk, en það hefur þá oftast fengið aðra vinnu. En þegar verkakona er ófrísk er henni eins gott að halda kjafti. Ófrísk kona sem er rekin úr vinnu hleypur nefnilega ekki í annað starf.

Atvinnuleysi.

Það er nær ógjörningur fyrir ófríska konu að fá vinnu. Ef kona er atvinnulaus þegar hún verður ófrísk eða er sagt upp

framhald á síðu 7

# Halldór Stefánsson látinn

Halldór Stefánsson rithöfundur lést sl. föstudag, 86 ára gamall.

Hann var kominn á fertugsaldur þegar fyrsta bók hans kom út, "Í fáum dráttum".

Hann hafði farið til Þýskalands og látið prenta þar bókina. "Þegar bókin var fullprentuð sigldi hann heim með hana í föggum sínum, en heima beið hans hvorki fjölmennur né forvitinn lesendahópur, skáldastyrkur á fjárlögum né embætti við hæfi rithöfunda, heldur sama strit í sama banka", segir Ólafur Jóhann Sigurðsson um Halldór í formála Sextán sagna eftir hann sem Heimskringla gaf út 1956.

Þessi yfirlætislausi rithöfundur skrifaði síðan fjölda smásagna, auk skáldsagna, leikþátta og kvæða.

Merkust ritverka hans eru án efa smásögurnar sem aðallega fjalla um lítilmagnann í þjóðfélaginu og eru skrifaðar af næmum skilningi á kjörum hins vinnandi manns og þeirra sem á einhvern hátt eru settir hjá.

Halldór var meðal stofnenda Félags byltingarsinnaðra rithöfunda og Máls og menningar og tileinkaði sér sósíalísk viðhorf eins og kemur fram í sögum hans.

Halldóri tókst það sem marga róttæka rithöfunda aðeins dreymir um, að skapa verk þar sem fer saman boðskapur og listræn umgerð þannig að efnið greypist í huga lesandans og sagan verður honum ógleymanleg.



Halldór Stefánsson

Í stuttri minningargrein er þess ekki kostur að gera ritverkum Halldórs verðug skil; það verður að bíða betri tíma. Stéttabaráttan lætur sér nægja að votta hinum látna snillingi virðingu sína og vekja athygli á stórkostlegum verkum hans.